# Verkalýðsblaðið

6. tölublað 10. árgangur 6.júlí 1981 Verð kr 4.oo

## Gegn vinnuþrælkun – hærri daglaun

Sú launastefna hefur verið ríkjandi undanfarin ár, að í stað þess að krefjast hærri launa fyrir dagvinnu slást menn um að fá sem mesta yfirvinnu. Einnig hafa yfirborganir tíðkast og þá nær eingöngu hjá karlmönnum.

Hjá hinu opinbera eru yfirborganir í formi greiðslu fyrir yfirvinnu sem ekki er unnin, bílastyrks og ýmissa fríðinda, en mest allt gengur slíkt til fólks í hærri stöðum. Annars staðar á vinnumarkaðinum er yfirborgun oft greidd á dagvinnuna. Flestir verða þó að leggja á sig aukna vinnu til að auka tekjur sínar.

Umsamdir launataxtar eru nokkuð sem vinnuveitendur hafa ekki getað kvikað frá launþegum í óhag. Yfirborganir og yfirvinna eru hins vegar ekki samningsbundin og ótrygg eftir því. Þetta gera vinnuveitendur sér ljóst, bæði þeir hjá VSÍ og hjá ríki og sveitarfélögum. VSÍ hefir þegar gefið út yfirlýsingar um að grunnkaupshækkanir séu "ekki mögulegar". Þetta

framhald á síðu 3



Í Hampiðjunni er unnið á tví- og þrískiptum vöktum. Þar hafa lengi tíðkast yfirborganir fyrir góð afköst og fara þær algjörlega eftir geðþótta yfirmanna.

## Var friðargangan friðarganga?

Í Keflavíkurgöngunni (Friðargöngunni) laugard. 2o. júní, var ekki slegið neitt met í þátttöku, þátttökuleysi eða almennri baráttustemmningu. Hins vegar tókst að halda þar einar 9 ræður og ávörp án þess að þar kæmi fram bein gagnrýni á Sovétríkin. Það verður að teljast met.

Þorgrímur Starri varaði reyndar við vígbúnaði stórveldanna beggja og eitthvað kunna aðrir ræðumenn að hafa sagt í þá veru sem farið hefur fram hjá mér. Slíkir dropar vilja hverfa í hafsjó gagnrýni á aðeins annan risann, Bandaríkin.

Birna Þórðardóttir hélt lengstu ræðuna. Hún komst allt niður í hin smæstu aðildarríki NATÓ í þrumandi gagnrýni sinni á vígbúnað og óstjórn. Hún sá hins vegar ekki ástæðu til að draga Sovétríkin inní þá umræðu, hún lét eins og þau væru ekki til. Þokkalegur málflutningur það.

Afganistan var þaðan af síður nefnt á nafn. Um svipað leiti voru að berast fréttir af, að þriðjungur þeirrar þjóðar hefði flúið land, röskar 2 miljónir. Nei, Rússar skulu ekki truflaðir við iðju sína þar. Og þetta átti að heita friðarganga. Það hefði einhverjum þótt hneykslanlegt að ganga friðargöngu 1972 án kröfunnar: "Bandaríkin út úr Víetnam". Miðnefnd SHA hafnaði tillögu um að krafan "heri Sovétríkjanna út úr Afganistan" yrði með í göngunni.

Það verður að skoða alla hluti í því samhengi, sem þeir eru settir í. Krafan "Ísland úr NATÓ, herinn burt" er mjög góð, ef henni fylgja kröfur er beinast gegn vígbúnaði og útþenslu Sovétríkjanna. Þá er hún krafa um sjálfræði og frið. Sé hún alveg slitin úr þessu samhengi, er eðli hennar allt annað og verra. Þá

framhald á síðu 3




Úr "Friðargöngu" Samtaka herstöðvaandstæðinga.

Galdratækið vísitala 4

Sampham og Síanúk funda 6

Borgið áskriftargjöldin 5

## Sósíalismi og Alþýðubandalagið

Sósíalisminn, sem alhliða fræðikenning um þjóðfélagsskipan, er ekki nema rösklega aldar gamall. Okkur finnst það e.t.v. langur tími, en í sögunni er þetta skammur tími. Kenningar sem fela í sér algera umsköpun á öllum sviðum þjóðlífs detta hvorki fullbúnar af himnum ofan né spretta fullskapaðar úr höfði eins eða fárra manna. Slíkar kenningar eru langan tíma í smíðum og smiðirnir eru margir.

Byltingarkenningar sósíalsimans hafa sífellt verið að mótast og lagast að aðstæðum eins og þær eru á hverjum stað. Eðlilega tekst misjafnlega til og margskonar sósíalismar hafa séð dagsins ljós. Skrattanum hefur verið skemmt með því að sósíalistar deila um sósíalisma, byltingarleiðir og þjóðfélagið eftir byltingu. Miklu púðri hefur verið eytt í skæruhernaði þeirra sem kalla sig sósíalista, kommúnista eða vinstrimenn gegn öðrum sem kalla sig sömu kenninganöfnum.

### Sá hlær best sem....

Umræða um sósíalisma sem fræðikenningu og hugmyndir, jafnt sem raunverulega pólitík í dagsins önn hefur verið af skornum skammti. Hvers vegna? E.t.v. vegna þess að verið er að forðast að skemmta skrattanum, þ.e. stéttarfjanda alþýðustéttanna. Sú virðist vera ástæðan hjá mörgum sem kalla sig sósíalista. Er þetta skynsöm stefna? Er ekki þörf á umræðu um sósíalisma meðal þeirra sem vilja sósíalisma, og er ekki þörf á að sú umræða verði skelegg? Sósíalísk stefna, sem á sér bakhjarl í skeleggri og heiðarlegri umræðu fjölda fólks kitlar ekki stéttaróvininn til hláturs, þá er komið að öðrum að hlæja.

Það er því ekki að ástæðulausu að sósíalistar og kommúnistar, a.m.k. sumir hverjir, hvetji í sífellu til umræðu og aftur umræðu, að þeir reyni að fá aðra sem kalla sig sósíalista eða kommúnista til að ræða og deila. Það er grundvallaratriði í sósíalískri stefnumörkun að rætt og deilt sé um skoðanir. Þetta er líka grundvallaratriði í sósíalísku þjóðskipulagi, að öðrum kosti staðnar það og umhverfist í andstæðu sína, svo sem dæmin sanna frá Sovétríkjunum og A-Evrópu.

### Þeir stóru eru minnstir

Þau samtök er stóðu að stofnun Kommúnistasamtakanna gerðu margar vitleysur í starfi sínu. Slíkt er ofur eðlilegt þar sem þau

framhald á síðu 6

# Samflot eða sérsamningar?

Eiga öll félög innan ASÍ að hafa samflot við gerð kjarasamninga, eða á hvert félag fyrir sig að semja þegar því best hentar? Um þetta hefur lengi verið deilt. Báðar aðferðirnar hafa ýmsa kosti og ókosti.

Lítum aðeins á hvernig þessu hefur verið háttað að undanförnu.

Stór samninganefnd hefur verið kosin og önnur minni úr henni til þess að sitja við samningaborðið. Í fyrstu berast fréttir af tilboðum sem eru lögð fram og hafnað. Svo koma fréttir um að samningamenn verjist allra frétta og þá er loks eitthvað fréttnæmt að gerast.

Félagsmenn verkalýðshreyfingarinnar hafa hvorki tekið þátt í undirbúningi kröfugerðar né fylgst með gangi samninganna. Séu menn óánægðir með samningana er þeim sagt að félagið geti ekki farið eitt út í frekari baráttu því önnur félög muni ekki styðja það til að fá meira en hinir. Stjórnarmenn lýsa því svo yfir að þeir treysti sér ekki til að semja betur og þeim sem vilja fella samkomulagið er boðið upp á verkfall án stuðnings eigin félagsstjórnar eða heildarsamtakanna. Sé félagsstjórnin hins vegar óánægð með kröfugerðina og taki ekki þátt í samflotinu er það álitið hið versta liðhlaup. Og sé hún óánægð með samkomulagið og reyni að fá sérsamninga síðar á samningstímabilinu, þá er það jafnvel enn verri heimtufrekja.

Sama háttinn virðist eiga að hafa á núna. Á formannaráðstefnu ASÍ 27. mars sl. var kosin 54 manna nefnd til þess að fara með undirbúning næstu kjarasamninga. Nefnd þessi hefur þegar hafið störf, en fundir ekki verið haldnir eða annað reynt til að leita álits almennra félagsmanna.

Það hefur m.a. verið talið samflotinu til tekna, að aðeins með því sé hægt að semja um félagslegar umbætur og ýmsar stórvægilegar breytingar. Á það skal bent á móti að félagslegar umbætur þurfa ekki nauðsynlega að fylgja kjarasamningum, heldur á verkalýðshreyfingin stöðugt að berjast fyrir þeim og reyna að koma þeim fram á Alþingi. Þarna þarf að beita heildarsamtökunum, en það hindrar ekki að félögin semji sér um ýmis önnur mál svo sem um laun og vinnuaðstöðu.

Styrkur heildarinnar, er nokkuð sem samflots-menn hafa haldið mjög á lofti, en ansi oft finnst manni hann hafa verið notaður til þess að halda aftur af þeim kröfuhörðustu í stað þess að styrkja þá.

Þegar allir félagsmenn ASÍ fá launahækkun í einu hlýtur það að hafa mikil efnahagsleg áhrif á þjóðfélagið. Á þetta hefur VSÍ óspart bent og sett fram hrikalegar tölur sem sýni kolsteypu þjóðfélagsins og æðisgenginn hraða verðbólgunnar við hverja krónu sem bætist í launaumslag verkafólks. Þannig "sanna" reiknimeistarar að ekki megi fá umtalsverðar kauphækkanir í heildarkjarasamningum. Fari hins vegar einstaka félög út í sérsamninga verða áhrifin á efnahagslífið minni í einu, en þá er bent á að allir aðrir krefist þess sama og holskeflan komi á eftir. Það er nefnilega svo að eftir langvarandi samflot lítur fólk orðið svo á að ef einhver fái eitthvað eigi hinir að fá það sjálfkrafa á eftir. Samstöðuleysið í verkalýðshreyfingunni er svo algjört að það er ekki glaðst yfir ávinningi þeirra sem ná meiru fram og þeim þakkað brautryðjandastarfið, vitandi að það muni létta þeim róðurinn sem á eftir koma. Nei, það er verið með hótanir: Ef þessi frekjuhlunkur fær sitt fram þá komum við með kröfur á eftir og vinnuveitendum er því vissara að vera ekki of örlátir. Fólk er svo fast í kökukenningunni að margir halda að ef einn launþegi fær stærri sneið hljóti hinir að fá minni, en gleyma því að það er líka hægt að skera þeim megin af sem hluti atvinnurekenda er. Sú launapólitík sem rekin hefur verið í verkalýðshreyfingunni að níða skóinn hver af öðrum og standa gegn kauphækkunum til annarra hópa, verður framtíðarhagsmunum hreyfingarinnar alltaf til skaða. Gróði eins verður gróði annars og við skulum því styðja hvert annað í baráttunni.

-/ess.



# það drukknuðu bara tveir

Heima hjá mér voru staddir nokkrir kunningjar og við ræddum það siðleysi sem í ljós kom, þegar v/b Heimaey rak á land. Allir vorum við sammála um að taka þyrfti upp umræðu um þessi mál og það dæmdist á mig að byrja, vegna sérþekkingar, er ég hafði aflað mér á þessum málum. Ég var þeim hinsvegar ekki sammála um að Þjóðviljinn væri nothæfur, þar sem ráðamenn hans væru lærisveinar þeirra kapítalísku kenninga er slysunum valda hér. Það fór vitanlega eins og ég vissi fyrir að Þjóðviljinn birti ekki greinina, heldur yfirklór og skellti ábyrgðinni á sjómennina, í þágu þeirra glæpamanna, sem ávaxta fé það er þeir hafa náð undir sig.

Yfirskriftin væri önnur ef þessir tveir hefðu verið útgerðarmenn með nokkur hundruð miljarða skuldir í bönkum og lífeyrissjóðum, og ef þessir tveir hefðu, af hagkvæmnisástæðum, látið dragast að greiða í orlofssjóði, tryggingagjöld og annað þesshattar, hefði það breikkað sorgarrendur blaðanna, minningargreinar, hljómmiklar guðþjónustur með hverskonar brambolti og hávaða hefðu sett mark sitt á söguna. En þessir tveir voru bara sjómenn.

Við, sem erum svo gamlir að muna "skútuárin", höfum betri aðstöðu til að þekkja þróunina en þeir, sem nú kenna söguna í skólum, eftir annara forskrift. Hagsýnir útgerðarmenn keyptu, niðurlögð, þilskip frá Bretlandi og gerðu hér út með úrvali af íslenskum fiskimönnum. Þessi skip voru í misjöfnu standi. Oft var þilfars-

framhald á síðu 6

# Mismunandi fæðingarorlof

Nýlega hafa verið sett lög um fæðingarorlof þar sem Tryggingastofnun ríkisins er gert að greiða fæðingarorlof í 3 mánuði til allra kvenna sem ekki eiga rétt á launum í fæðingarorlofi. Mánaðarlegar greiðslur eru þannig:

Fyrir þær sem hafa skilað 1o32 vinnustundum á sl. 12 mánuðum (sem samsvarar 5o% starfi) greiðist fullt (1/1) orlof kr. 6o75 á mán.

Fyrir 516 vst. (25% starf) greiðast 2/3 orlofs kr. 4o5o á mán..

Fyrir minna en 516 vst. (þar á meðal til húsmæðra) greiðist 1/3 orlofs kr. 2o25 á mán.



Frá "róló" í Stykkishólmi.

## Opinberir starfsmenn

Þær konur sem eru fastráðnar hjá ríki og sveitarfélögum fá hins vegar greidd laun í fæðingarorlofi. Til þess þurfa þær að hafa unnið minnst 5o% vinnu á sl. 6 mán. Þá halda þær vaktaálagi og hlutfallslegum yfirvinnugreiðslum, orlofi og öðrum samningsbundnum réttindum.

Til þess að fá sömu greiðslur og Tryggingastofnunin veitir þarf kona sem er í BSRB og vinnur fulla dagvinnu að vera í 11. lfl. 3. þrepi. Þær sem eru þar fyrir ofan fá hærri laun, en þær sem eru þar fyrir neðan fá lægri laun og í síðari hópnum eru t.d. um 8o% kvenna í SFR. Til þess að fá sömu greiðslu og Tryggingastofnun veitir fyrir 5o% starf, þarf konan að vera í 31.lfl., en þar eru engar konur. Af því fólki sem vinnur hlutastörf er mikill meirihluti konur. Það er því ljóst að stór hluti kvenna fær mun lægra fæðingarorlof en Tryggingastofnunin veitir.

Fjármálaráðuneytið hefur alfarið neitað að hækka fæðingarorlofsgreiðslur til láglaunakvenna í BSRB, nema gegn því að fallið verði frá öðrum samningsbundnum réttindum svo sem orlofs-, vakta- og yfirvinnugreiðslu í fæðingarorlofi og fullra launa til þeirra sem eru fyrir ofan 11. launaflokk. Slíkt myndi þýða tekjuskerðingu fyrir fjölda kvenna. BSRB hefur að sjálfsögðu hafnað því að selja samningsbundin réttindi sumra félagsmanna sinna fyrir sjálfsögð réttindi til handa öðrum.

Í næstu samningum verður BSRB að krefjast þess að konur haldi launum og öðrum réttindum í fæðingarorlofi, en fái þó aldrei minna en Tryggingastofnunin greiðir.

-/ess.

# Enn um fiskmat

Greinar um fiskmat sem birst hafa í Verkalýðsblaðinu, hafa vakið töluverða athygli. Er því þar haldið fram að hluti af þeim fiski sem fer í annan og þriðja flokk upp úr bát, sé seldur sem fyrsta flokks vara eftir vinnslu. Fái sjómenn þannig greitt fyrir annars flokks vöru, þegar frystihúseigandinn selji sömu vöru sem fyrsta flokks.

VBL leitaði álits Jóns Kjartanssonar formanns Verkalýðsfélags Vestmannaeyja og spurði hann hvernig þetta væri mögulegt og hvort hann teldi mikil brögð að þessu.

Jón sagðist telja að þeir sem ynnu við ferskfiskimat, a.m.k. þarna í Eyjum, mætu fiskinn heiðarlega eftir lögum og reglum. Erfiðara væri hins vegar að fylgjast með því hvað um fiskinn yrði í höndum kaupanda. Einna helst er hægt að fylgjast með þessu í saltfiskinum, en þar á ekki að skeika neinu sem um munar á ferskfiskmati og saltfiskmatinu. Fiskur sem réttilega sé metinn sem þriðja flokks upp úr skipi, getur við góð skilyrði orðið fyrsta flokks skreið ef hann verkast vel. Í frystihúsunum sjálfum vantar hins vegar opinbert eftirlit með daglegri framleiðslu. Þar eru það verkstjórar, launaðir til að gæta hagsmuna fyrirtækisins, sem ákveða hvernig metið er. Kvartanir erlendis frá, frásagnir starfsfólks og það að dagsframleiðsla af " fyrsta flokks" blokk hefur verið keyrð í bræðslu, sýnir að ekki er allt fyrsta flokks sem selt er sem "fyrsta flokks".

Strangt fiskmat er nauðsynlegt en það er ekki sanngjarnt að verið sé með flísatöng og stækkunargler á lofti í ferskfiskmatinu einu, sem ákvarðar verð til sjómanna, þegar því er ekki fylgt eftir síðar á framleiðsluferlinu.

VBL bendir á að víða rekur sami aðili útgerðina og fiskvinnsluna. Þar eru oft höfð helmingi fleiri net í sjó en leyfilegt er og verður því ekki annað að draga þau öll inn á einum degi og er því stundum komið með of gamlan og lélegan fisk að landi. Vinnan á þessum bátum er meiri og erfiðari en á hinum sem hafa hæfilegan fjölda neta en ferskfiskmatið er lélegra og launin eftir því.

Eigendur myndu varla hafa þennan háttinn á nema af því þeir sjá sér hag í því og þá trúlega með því móti að selja fiskinn sem fyrsta flokks eftir vinnslu þrátt fyrir allt.

- /ess

# Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ari Trausti Guðmundsson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl.15-17 á þriðjud. og 16-18 á fimmtud.
Sími: 29212
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gírónr.: 12200-9
Prentað í prentsmiðju blaðsins


## Nýjan göngutakt!

Hefðbundin og meðalstór Keflavíkurganga sýndi það sem skoðanakönnun Dagblaðsins gaf til kynna í haust: Fylgi herstöðvaandstæðinga stendur í stað eða minnkar. Nú er orsök þessa líklega hvorki sú að einlægni eða baráttuvilji virkra liðsmanna hreyfingarinnar hafi minnkað eða stefnan sé út í bláinn. Hitt er sýnu stórvægara að hreyfingin eyðir ekki nógu púðri á Sovétríkin og Varsjárbandalagið. Sú blokkin er mun betur vopnuð en áður, mun grimmari og mun andsnúnari alþýðu heims en áður var. Fólk treystir almennt ekki kröfu um úrsögn úr NATO, nema til komi virkari andstaða gegn hinu risaveldinu og íslenskur valkostur í öryggismálum í formi almannavarna. Segjum hátt og skýrt: Ísland úr NATO - herinn burt; Sinnum öryggismálunum sjálf og krefjumst kjarnorkuvopnalauss svæðis frá Keflavík til Kolaskaga, ásamt afvopnun risaveldanna. Þá bætast þúsundir í hópinn.

## Falsanir á raunveruleikanum

Stjórnarmálgögnin keppast við að sýna fram á að kaupmáttur launa hafi lítið sem ekkert minnkað, en stjórnarandstaðan gerir hið gagnstæða. Þessi leikur að lýðræðinu er broslegur þegar þess er gætt að flokkarnir skipta um hlutverk hikstalaust með nokkurra ára millibili. Tilgangur kosningaflokkanna fjögurra kemur vel í ljós í leiknum. Þeir vinna ekki með íslensku launafólki að því að búa sér nægtarlíf með 8 st. vinnudegi, heldur pota þeir nokkur hundruð flokksgæðingum á ríkisjötuna gegnum kjörkassana. Hér er hvorki verið að gera lítið úr ágætum umbótum né íslenskum kjósendum, heldur því þjóðfélagskerfi sem búið er til með forréttindi auðmanna og skriffinna fyrir augum.

Þá er ekki úr vegi að minna á að tölurnar sem eiga að sýna varðveittan kaupmátt eru miðaðar við 2o ára gamlar neysluvenjur. Ennfremur er verðhækkunum og verðlækkunum beitt af vísindalegri nákvæmni til þess að hagræða framfærsluvísitölunni eins og sást á frestun verðhækkana fram yfir 1. júní. Og hvað með áfengi og tóbak sem er utan við verðbætur um þessar mundir? Hálfkveðnar vísur stjórnarmálgagnanna eru þeim mun meiri leirburður þegar þess er gætt að meðalvinnutími verkafólks er 5o-6o st. á viku og þúsundir flytjast úr landi, árum saman.

Verðbólguvaldurinn liggur ekki í láglaunum launafólks, heldur í gróðasókn atvinnurekenda sem kvarta og boða enn meiri sókn á hendur launafólki. Samtímis ætlar Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna að sjárfesta fyrir um 4 miljarða í Bretlandi (gkr.) en 1oo% framleiðniaukning er nýorðin í ullariðnaðinum. Hér á Íslandi hefur yfirstéttinni tekist að slá á frest kreppu sem hrjáð hefur nágrannalöndin - einmitt með því að ganga í skrokk á launafólki með þöglu samþykki og jafnvel aðstoð fjölmargra verkalýðsforingja sem hafa selt sálu sína fyrir 3o silfurpeninga.

22. júní. a.

## Úr starfinu

Kommúnistasamtökin sendu stuðnings- og baráttukveðjur á útifund fatlaðra í R.vík 13. júní sl. Samtökin gáfu út ályktun í nafni stjórnar sinnar um Friðargönguna 1981 (sjá ályktun og grein, auk leiðara) þar sem þau studdu hana með ákv. gagnrýni. Samtökin sendu einnig kveðju til útifundar Samtaka herstöðvaandstæðinga í R.vík 2o. júní.

Nokkrir félagar KS gengust fyrir ráðstefnu kommúnista, ásamt ófélagsbundnum kommúnistum, 27. júní sl. Þar var bæði fortíð og framtíð hreyfingar þeirra til umræðu. Þá hafa KS undirbúið leshring handa félögum sínum og öðru áhugafólki. Fundirnir eru 8 talsins og efnin þessi: Hagfræði marxismans (m.a. stéttir þjóðfélagsins, efnahagsástandið, hagsmunabaráttan), Ríkið, lýðræði, bylting og stjórnmálasaga 192o-8o, Þarf kommúnísk samtök - Hver er tilgangur starfs okkar, (m.a. um efnishyggju, tengsl hagsmunabaráttu og stjórnmálabaráttu), Kína og saga marx-lenínískrar hreyfingar og loks: Stefna og starf Kommúnistasamtakanna.

Fundir hefjast snemma í júlí og geta menn valið um tvo mismunandi fundardaga í viku hverri. Hafið samband við einhvern talsmann KS eða Ara T. Guðmundsson í síma 359o4 eða 12223.

16.6/t.

# Ályktun um friðargönguna

Kommúnistasamtökin lýsa yfir gagnrýnum stuðningi við gönguna og hvetja til þátttöku í henni. Samtökin telja aðgerðina spor í rétta átt, en þó ekki nógu markvisst.

Fyrri göngur hafa stappað stálinu í andstæðinga erlendra herstöðva á Íslandi og undirstrikað alvöruna að baki kröfunni "Ísland úr NATO - herinn burt". Önnur mál er varða baráttu fyrir þjóðfrelsi gegn heimsvaldastefnu hafa mjög borið þar á góma, svo sem landhelgismálið á sínum tíma og barátta gegn erlendri stóriðju. Fyrirhuguð ganga 2o. júní n.k. hefur þá sérstöðu að vera í nánum tengslum við stefnu og aðgerðir friðarhreyfingar í Evrópu og er nánast liður í fjöldagöngu frá Kaupmannahöfn til Parísar undir kjörorðinu: "Kjarnorkuvopnalaus Evrópa frá Póllandi til Portúgal".

Við í Kommúnistasamtökunum fögnum sérhverri tilraun til að draga úr vígbúnaði og yfirvofandi hættu á stríði. Við teljum höfuðkröfur norrænnar (kjarnorkuvopnalaus Norðurlönd - án Íslands) og evrópskrar friðarhreyfingar gallaðar, þar sem þær beinast nær eingöngu að afvopnun eigin landa, en krefjast ekki af neinni alvöru eyðileggingar þeirra kjarnorkuvopna sem stórveldin tvö beina m.a. að þessum löndum, t.d. meðaldrægum eldflaugum á Kólaskaga og á N-Atlantshafi.

Við teljum rétt að leggja meginåherslu á afvopnun sjálfra risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, þar sem við álítum útþenslustefnu þeirra beggja ógna heimsfriði mest. Hin síðari ár hafa Sovétríkin náð meiri árangri í útþenslutilraunum sínum en Bandaríkin og er því varhugavert, ef ekki er lögð rík áhersla á að knýja þau til afvopnunar og undanhalds.

Við teljum það misráðið, ef áðurnefndar kröfur frá Norðurlöndum og Evrópu verða gerðar að aðalkjörorðum Keflavíkurgöngunnar 2o. júní n.k. Þær mættu vera þar með á blaði, en við kysum heldur að meginkjörorð göngunnar (og í starfi samtakanna þar fyrir utan) væru:

Ísland úr NATO - Herinn burt
Gegn stríðsundirbúningi Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.
Afvopnun Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.

Auk þessara höfuðkjörorða teljum við eðlilegt að eftirfarandi kröfum verði haldið á lofti í göngunni: Kjarnorkuvopnalaust Norðurhjari; Kjarnorkuvopnalaus Evrópa frá Póllandi til Portúgal; Heri Sovétríkjanna út úr Afganistan Heri Víetnam út úr Kampútseu; Auknar almannavarnir; Gegn erlendri stóriðju.

Frá stjórn Kommúnistasamtakanna, 12. júní 1981.

## Leiðrétting

Í síðasta VBL (5. tbl.) var meinleg villa í greininni "Við sköpum söguna". Byrjun síðasta dálks á að vera svona:

"Í þessu liggur veikleiki verkalýðshreyfingarinnar (almennra félaga) og sósíalískra hreyfingarinnar, en líka nokkur styrkur. Í óvissunni og reiðinni felst nefnilega ferskleiki, fróðleiksþorsti og djörfung sem kemur í ljós fyrr en síðar. Það er til einskis að bíða, það er til einskis að sitja hjá við umræðu, það er til einskis að styðja ekki sérhvern baráttuvott. Munum að mistök afla reynslu ekki síður en ávinningar og þau eru hluti af þjóðfélagsstarfi sérhvers manns."

Eru höf. og lesendur beðnir velvirðingar.

-ritn.

framhald af forsíðu

## Gegn vinnuþrælkun – hærri daglaun

kom einnig fram bæði í samningunum við fóstrur og lækna en þar setti ríkið sig harðast á móti grunnkaupshækkunum. Bæði er það vegna þess að þær verða trauðla afturteknar og svo vegna hins að grunnkaupið er það sem miðað er við, bæði af öðrum launþegum og í ýmsum útreikningum.

Myntbreytingin um síðustu áramót virðist hafa orðið til þess að margir sjá betur en áður hve launin eru lág og verðbólgan hröð. Fólk rifjar upp hvað vörur kostuðu fyrir hálfu ári síðan, en í desember sl. mundi varla nokkur hvað vörur kostuðu almennt hálfu ári þar áður. Launin eru skyndilega uppurin. Í fyrstu ásakaði fólk sjálft sig fyrir að kunna ekki að fara með nýju peningana, síðan að kaupmenn okruðu svo mjög á myntbreytingunni, en loks er það að renna upp fyrir fólki að launin hrökkva einfaldlega ekki til framfæris.

Á vinnustöðunum gerast þær raddir nú æ háværari að það séu grunnkaupshækkanir sem leggja skuli aðal áhersluna á í næstu kjarasamningum. Fólk er greinilega orðið þreytt á gegndarlausri yfirvinnu.

Herðum róðurinn fyrir kröfunni: "Lífvænleg laun fyrir dagvinnu".

-/ess.



framhald af forsíðu

## Var friðarganga?

verður hún stuðningur við stríðsbrölt hins risans, Sovétríkjanna. Það eru sem betur fer fáir Íslendingar, sem styðja þannig kröfu.

Miðnefnd SHA hefur lagt þungan stein í götu baráttunnar gegn her í landi og fyrir friði, með því að gangast fyrir friðargöngu árið 1981 án þess að beina spjótunum sem skyldi gegn báðum stórveldunum. Stuðningsmenn NATÓ og hersins hafa fengið byr undir báða vængi, illu heilli. Miðnefnd herstöðvaandstæðinga verður að gera upp við þessa stefnu strax, ef ekki á illa að fara.

ÞÓÁ.

# Galdratækið vísitala

Öll höfum við heyrt stjórnmálamennina rífast um kaupmátt launa. Núna ásakar Sjálfstæðisflokkur Alþýðubandalagið fyrir að skerða kaupmáttinn, en áður var dæminu snúið við, meðan AB var í stjórnarandstöðu. Og stjórnarsetinn vitnar ávallt til útreikninga Þjóðhagsstofnunar á kaupmætti, sem hinn aðilinn fussar við og segir að þeir sýni ekki allt sem er. Kannski eru pyngjur okkar launamanna besti mælikvarðinn, en hver talar svo sem máli okkar?

## Við hvað er miðað?

Í maí birti Þjóðviljinn nýja útreikninga um varðveislu kaupmáttarins til þess að sanna ágæti ríkisstjórnarinnar. Þeir sýndu breytingar á taxtakaupi verkamanna undanfarna ársfjórðunga skv. vísitölu framfærslukostnaðar og voru þær harla litlar nú síðari hluta Gunnarsstjórnartíðar og var Kjartan Ólafsson ánægður með það. Þess má einnig geta að Þjóðhagsstofnun hefur spáð 2–3% kaupmáttarrýrnun fyrir allt árið 1981 og þykir gott á þessum síðustu og verstu tímum. En nú vaknar spurningin: Hversu nákvæmlega mælir þessi vísitala allar breytingarnar á útgjöldum heimilanna? Eiga ekki Þjóðviljinn og stjórnarflokkarnir að líta gagnrýnum augum á eigin orð?

## Flókið mál

Vísitala framfærslukostnaðar er tala sem hækkar eða lækkar þegar breytingar verða á verði ýmis konar neysluvara og þjónustu. Árin 1964 og 1965 fengust niðurstöður búreikninga 100 fjölskyldna sem skiptust í flokka eftir atvinnuskiptingu þjóðarinnar (því sem næst). Svo var búin til eins konar meðalfjölskylda (með 2 börn) og fundin út heildartala fyrir útgjöld hennar í janúar 1968 (rúmar 264 þús.gkr.). Þessi tala var síðan sett 100 og það er nánast hún sem heitir vísitala framfærslukostnaðar. Dálítil hækkun framfærslu hækkar vísitöluna í 101 sitg o.s.frv. Frá árinu 1968 að telja hækkaði vísitalan hratt og komst fljótlega í mörg hundruð stig á 7. áratugnum, en var aftur sett 100 1. jan. 1981 án þess þó að viðmiðuninni væri breytt. Í kjarasamningum hefur verið ákveðið hvernig verðbótum á laun skuli háttað og hafa þær oftast tekið nokkurt mið af vísitölu framfærslukostnaðar og greiðst á 3 mán. fresti, en meir um það síðar.

## Úreltar neysluvenjur

Auðvitað stingur mann fyrst í augun að neyslukönnunin skuli vera nærri 20 ára gömul. Matvara er nær aðeins til R.víkur og tekjuskattur og útsvar er ekki reiknað með. 26% af heildarútgjöldum, þar af kjöt 7%, en fiskur 3%. Ávextir eru aðeins 2,3%, og allt grænmetið (1,2%) jafnhátt kartöflum. Áfengi er talið 1,6%, en tóbak 2,6%, föt 11,3%, hiti og rafmagn 3,8% og rafmagnsáhöld 1,5%, bílakostnaður nær 8,5% og póstur/sími 1,3%, en húsnæði er 15,7% af heildarútgjöldum. Hvað finnst ykkur?

Athygli vekur að könnunin

## Hve mikið vantar?

Ljóst má vera að margnefnd vísitala mælir ekki útgjöld alþýðuheimila eins og þau eru. En ekki er nóg með það. Atvinnurekendur, stjórnvöld og ónýtir verkalýðsforingjar hafa sífellt aukið þessa skekkju með ótal ráðum. Fyrr er nefnt að beinir skattar eru ekki reiknaðir með. Því næst má minna á hvernig verðhækkunum er frestað þar til eftir 1. þess mánaðar sem vísitalan er miðuð við, nýútreiknuð, sbr. 1. júní sl. Stundum eru vissar vörutegundir lækkaðar í smátíma. Einnig eru ýmsar "vísitöluvörur" nær því horfnar úr neyslu fólks. Skattabreytingar koma hvergi fram. Þá eru

| | Útgjaldaupphæðir, kr. Nýr grunnur | Eldri vísitala |
|---|---|---|
| Matvörur | 70.763,58 | 60.574,55 |
| Brauð, kex, mjölvara | 7.323,66 | 7.023,91 |
| Kjöt og kjötvörur | 19.692,57 | 17.617,25 |
| Fiskur og fiskvörur | 5.813,46 | 6.274,91 |
| Mjólk, mjólkurvörur, feitmeti, egg | 19.976,12 | 20.002,84 |
| Ávextir | 6.218,05 | 2.650,61 |
| Kartöflur | 3.481,29 | 2.799,13 |
| Annað grænmeti | 3.085,15 | 1.812,85 |
| Sykur | 964,59 | 1.155,06 |
| Sælgæti, ís, aldinmauk o. fl. | 2.783,41 | 383,52 |
| Aðrar matvörur | 1.425,28 | 854,47 |
| Drykkjarvörur | 9.131,13 | 4.809,11 |
| Kaffi, te o. fl. | 2.669,03 | 2.989,07 |
| Gosdrykkir, öl, ávaxtasafar o. þ. h. | 2.028,21 | 866,94 |
| Áfengi | 4.433,89 | 953,10 |
| Tóbak | 6.948,47 | 4.573,61 |
| Föt og skófatnaður | 30.704,76 | 17.427,11 |
| Föt og fatnaðarvörur | 25.184,38 | 13.188,00 |
| Skófatnaður og skóviðgerðir | 5.520,38 | 4.239,11 |
| Hiti og rafmagn | 10.180,68 | 8.915,63 |
| Heimilisbúnaður, hreinlætisvörur o. fl. | 21.067,22 | 6.623,72 |
| Húsgögn og gólfteppi | 6.849,98 | – |
| Vefnaðarmunir til heimilisnota | 2.749,87 | 1.260,98 |
| Ýmsir búshlutir | 575,94 | – |
| Rafmagnsáhöld o. þ. h. | 4.115,43 | 475,20 |
| Önnur búsáhöld | 2.057,12 | 2.282,55 |
| Hreinlætisvörur o. fl. | 2.238,24 | 1.743,19 |
| Fataþvottur og hreinsun o. þ. h. | 971,25 | 861,80 |
| Húshjálp o. fl. | 1.509,39 | – |
| Snyrtivörur og snyrting | 4.523,25 | 2.549,37 |
| Vörur og tæki til snyrtingar | 2.719,12 | 1.323,64 |
| Keypt snyrting | 1.804,13 | 1.225,73 |
| Heilsuvernd | 5.207,24 | 1.845,37 |
| Lyf, hjúkrunar- og lækningavörur | 1.754,48 | 360,52 |
| Læknishjálp | 3.452,76 | 1.484,85 |
| Eigin bifreið, fargjöld o. þ. h. | 27.175,33 | 3.907,94 |
| Eigin bifreið | 22.956,48 | – |
| Fargjöld o. þ. h. | 4.218,85 | 3.907,94 |
| Síma- og póstútgjöld | 3.399,76 | 1.622,20 |
| Lestrarefni, hljóðvarp, sjónvarp, skemmtanir o. fl. | 28.660,96 | 6.863,42 |
| Bækur, blöð og rit, ritföng | 6.831,74 | 3.276,53 |
| Hljóðvarp, sjónvarp, hljóðfæri o. þ. h. | 6.683,20 | 620,00 |
| Ýmsar vörur til skemmtunar o. þ. h. | 3.217,83 | 25,76 |
| Menntun | 2.154,43 | – |
| Ýmsar skemmtanir o. fl. | 9.773,76 | 2.941,13 |
| Vörur ótaldar annars staðar | 1.706,41 | – |
| Stéttarfélagsgjald | 1.629,80 | 1.089,00 |
| Húsnæði | 42.600,00 | 15.402,00 |
| Opinber gjöld, önnur en tekjusk., útsvar og kirkjugarðsgjald | 9.074,80 | 9.136,00 |
| Tekjuskattur, útsvar og kirkjugarðsgjald | – | 6.787,00 |
| Samtals | 272.773,39 | 152.126,03 |
| Frá dregst: Fjölskyldubætur | 7.842,94 | 8.872,96 |
| Alls | 264.930,45 | 143.253,07 |

# Eru læknalaun hæfileg?

Það hafa heyrst þungir dómar um þann dónaskap lækna að beita uppsögnum til þess að knýja fram kjarasamninga. Almennir læknar hafa föst laun á bilinu 7000 – 15000 kr., en oftast mun hærri mánaðartekjur þegar allt er talið (að frátöldum sköttum). Líklega hafa þó nokkrir iðnaðarmenn, sjómenn og næturvinnumenn lík laun fyrir mikla vinnu, en læknalaun þykja há miðað við verkamannalaun og má það til sanns vegar færa. Ekki þekkist nein formúla fyrir "sanngjörnum launamun", en hitt er þó víst að Hagstofa Íslands reiknar með a.m.k. 7–8000 kr. framfærslukostnaði vísitölufjölskyldu á mánuði. Kannski ætti því að eyða meiri tíma í að hneykslast á óhugnanlega lágum grunnlaunum alþýðumannsins, fremur en kjarakröfum lækna og hugsa meira um hvert launastefna auðstéttarinnar er að leiða launafólk.

## Taka læknar af mér?

Ef illa gengur að meta "sanngjarnan launamun" eða grunnlaun lækna, má snúa sér að spurningu sem margir velta fyrir sér: Er launahækkun læknis óhagstæð fyrir mig? Því er til svara að skattar þurfa ekki að hækka, þótt heilbrigðisþjónustan verði ríkinu dýrari – það fer einfaldlega eftir því hvar peningar til lækna eru teknir. Einnig er það alveg dagsatt að launaliðið á rekstursreikningi ríkis eða atvinnurekenda er ekki sett tekjur, heldur alla starfshópa sem reyna að lifa mannsæmandi lífi á DAGVINNUTEKJUM. Við munum hvernig ASÍ-foringjar, flokkssendlar og ríkisvald barði niður grafíska sveina, farmenn o.fl. hópa, með þöglu sam- nein greinileg takmörk. Þvert á móti má hækka laun ef aðrir liðir eru látnir lækka, t.d. eigið eyðslufé skriffinna á ríkisjötunni og eyðslufé atvinnurekandans. En það mega fyrirmenn og ráðherrar ekki heyra minnst á. Allt slíkt er sagt "stefna fyrirtækjum og ríkisþjónustu í voða" og "auka verðbólguna" – enda talið alveg sjálfsagt að launahækkun fylgi verðhækkun svo afæturnar missi nú ekkert úr askinum. Því miður hefur þessi áróður um "freka hálaunamenn", "þrýstihópa" og "verðbólguhvetjandi launakröfur" hrifið, ekki bara á lækna með þokkalegar þykki allt of margra launamanna.

Rétturinn til að berjast sjálfstætt fyrir kjörum og hagsmunum eru sjálfsögð mannréttindi allra hópa verkalýðsstéttarinnar og annars launafólks. Í því sambandi getur einn hópur launamanna gagnrýnt annan en fara á afar varlega í að vinna gegn honum.

## Í gegnum moldviðrið

Fáar raddir hafa borist óbrenglaðar í gegnum moldviðrið sem andstæðingar kjarabaráttu hafa þyrlað upp í læknadeilunni. Svavar Gestsson faldi vísvitandi þá staðreynd að 420 kr. tímagjald Læknaþjónustunnar rennur alls ekki óskipt til lækna. Sjúkrahússtjórnir birta ekki tölur yfir rauntekjur sinna lækna. Talsmenn ríkisins hafa líka reynt að gera lítið úr því að það hefur ekki verið til viðræðu um kjarasamninga við lækna í tvö ár, en þess í stað látið Kjaradóm skammta launin. Og hvað skyldi framkalla alla þessa yfirvinnu lækna annnað en vísvituð mannekla, aðstöðuleysi og níska sem saman kallast "sparnaður" á ráðuneytismáli? Flest þekkjum við af eigin raun allt of stóra agnúa heilbrigðisþjónustunnar sem starfsfólkið (ekki ríkið) reynir að snúa af því með yfirvinnu, ólaunuðum erli og umhyggju fyrir sjúklingum.

Meginatriðin í kjaradeilunni eru: Of lág grunnlaun, óþolandi samningsstaða og of léleg starfsskilyrði. Allir launamenn ættu að hafa grunnlaun á bilinu 8–9000 kr



óstaldar ýmsar aðgerðir sem auka á mismun framfærslukostnaðar skv. fyrrgreindum grunni og verðbóta. T.d. hafa verðbætur verið skertar þeim frestað (í óðaverðbólgu eða liðum eins og áfengi og tóbaki kippt út úr verðbótagrunninum. Hve mikið vantar upp á að framfærslukostnaður og kaupmáttur eða raunverulegar verðbætur séu þekktar til fulls, veit enginn.

## Nýr grunnur

Það er nöturlegt að sjá og heyra yfirlýsta alþýðuvini fara blygðunarlaust með hálfsagðan sannleika til þess að lofa eigin verk. Það er óþolandi að eiga verkalýðshreyfingu sem sviftir ekki öllum leiktjöldum skrípaleiksins til hliðar. Málið er að daglaun eru allt of lág, vinnutími allt of langur og trygging gegn verðbólgu allt of léleg, hvað sem töflur og tölur segja. Nú liggur ný neyslukönnun og nýr grunnur að framfærsluvísitölu tilbúinn skv. pöntun ríkisstjórnar og fleiri aðila. Hann er líklega skárri en hinn. En þá kemur tvennt til. Vísitalan verður vafalítið sett í loo með gildistöku nýja grunnsins. Þar með innsiglast um tveggja áratuga kjararán og rangtalning sem aldrei verður bætt. Hitt bætist svo við að atvinnurekendur heimta nú þegar mun hægfarara verðbótakerfi og frekari takmarkanir á útvötnuðum samnings- og verkfallsrétti launafólks. Með stuðningi núverandi ríkisstjórnar og margra verkalýðsforingja verður þeim vafalítið að ósk sinni nema okkar barátta komi til.

-agé.

---

að mínu mati - eða hærri og gildir það fyrir lækna, sérstaklega lægri launaflokka þeirra. Læknastöðum á að fjölga og minnka eftirvinnu lækna, en það myndi spara ríkinu stórfé. Og eðlilega kjarasamninga á að gera við alla á umsömdum fresti, en skáka ekki í því lúalega skjóli að starfshópur hafi ekki verkfallsrétt og æsa almenning upp á móti heilum starfshópum útaf einstaklingum innan hans sem hafa háar tekjur.

## Einhvern stuðning

Mig skortir þekkingu til að gagnrýna sitthvað í baráttu lækna núna. Vonandi gera aðrir það. En ég tel lækna hafa haft rétt til að beita eina löglega vopni sínu til að knýja fram samninga. Ef til vill var Læknaþjónustan óþörf, en rauntekjur margra lækna þurfa greinilega að hækka. Auðvitað erum við ekki vön að styðja þá sem hafa meira en við, en kannski að það sé nú einmitt einn gallinn á baráttustöðu verkalýðshreyfingarinnar. Knýjum að minnsta kosti á ríkið að samningaborði og styðjum lækna, hjúkrunarfólk og aðra starfsmenn heilbrigðisstofnana í viðleitni þeirra til að efla þjónustuna. Aurarnir eru til í prjáli og bruðli innan ríkisins.

**Ari T. Guðmundsson.**

---

# AKRAPRJÓN:
# Bónusdeilunni lokið með sigri starfsfólks

Nýverið áttu starfsstúlkur Akraprjóns h.f. á Akranesi í deilum vegna rangláts bónuskerfis. Því virðist vera lokið núna með sigri kvennanna. Vegna þessa átti tíðindamaður VBL viðtal við þær Guðlaugu Birgisdóttur og Hafdísi Gísladóttur, trúnaðarmenn sauma- og sníðastofu fyrirtækisins.

Því má bæta hér við að í síðasta tölublaði Framtaks, málgagns íhaldsins á Skaganum, er eftirfarandi klásúla í slúðurdálkinum: "Bjarnfríður Leósdóttir ritar forystugrein Dögunar 1.maí. Trú sinni köllun heldur hún áfram að hamast gegn bónuskerfum og virðist ekki taka mark á almennri ánægju launafólks með bónusinn"!



Úr vinnusal Akraprjón h.f. (ljósm. Þjóðv.)

VBL: Um hvað snerist málið?

Hingað komu fulltrúar á vegum Félags íslenskra iðnrekenda, til að endurskipuleggja vinnustaðinn á grundvelli erlends kerfis. Byrjað var á þjálfun okkar í ágúst sl. og við samþykktum svo að prófa að vinna eftir þessu kerfi í einn mánuð. Þar á eftir höfnuðum við kerfinu. Þetta afkastamat er það strangt að við kærum okkur ekki um að vinna eftir því. Vinnan er ekki tímamæld eins og við eigum að venjast, heldur er hver hreyfing og vinnuaðgerð metin eftir þeirra kerfi. Sumar kvennanna kváðust ekki geta unnið undir þessu álagi.

VBL: Nú hafa fjölmiðlar sagt að framleiðsluaukning hafi verið yfir 100% en kaupaukningin 15 - 16%.

Þetta er nú ekki alveg rétt. Framleiðsluaukningin var sjaldan svona mikil og kaupaukningin var svolítið misjöfn. Á saumastofu var hún þetta 2 - 20% en á sníðastofu yfir 40%.

VBL: Aðstoðaði verkalýðsfélagið ykkur í málinu?

Já, það stóð algjörlega með okkur og hjálpaði okkur m.a. við útreikninga ýmsa, en við áttum yfirleitt ekki svo gott með það upp á eigin spýtur.

VBL: En er þá málið í höfn?

Já, það skulum við vona. Fyrirtækið fór strax að kröfum okkar og við eigum ekki von á því að þetta kerfi verði reynt aftur óbreytt.

---

*Akureyri:*
# Barátta fyrir auknu lýðræði heldur áfram

Á Akureyri hafa verið haldnir tveir fundir nýlega, sem snerta mjög baráttuna innan verkalýðshreyfingarinnar. Fyrir þessum fundum stóð svonefndur Áhugahópur um aukið lýðræði í verkalýðshreyfingunni.
Fyrri fundurinn var haldinn í Nýja bíói. Hann var fámennur. Um það bil 35 manns mættu til að hlusta á 4 framsöguerindi og taka þátt í umræðu.



Stéttabaráttumenn á Akureyri fylkja liði 1. maí 1976

## Félagsstofnun frestað

Síðari fundurinn var í Alþýðuhúsinu. Hann var auglýstur sem stofnfundur skipulegrar hreyfingar fyrir auknu lýðræði. Af stofnun félags varð þó ekki, enda meira starf en svo að lokið verði á einum fundi að kvöldi dags. Á þessum fundi þar sem mættu um 25 manns úr a.m.k. 4 félögum var rætt um starfsgrundvöll og skipulag slíkrar hreyfingar. Einnig var rætt um næstu verkefni, m.a. í ljósi fámennisins á þessum tveim fundum. Fundarmenn urðu sammála um að næstu mánuðir yrðu notaðir til kynningar á stefnu hópsins á hinum ýmsu vinnustöðum og síðan yrði reynt að hóa saman fólki á ný. Gefið hefur verið út merki til að standa undir kostnaði af starfinu.

## Hvaða leiðir á að fara?

Nokkuð hefur verið rætt um ástæður þess, hve illa gengur að ná saman fólki til starfa innan verkalýðshreyfingarinnar. Ein ástæðan er vafalaust sú, hve grátt félögin eru leikin af forystunni og flokkspótintátunum. Fólk er farið að hafa svo illan bifur á öllu sem snertir verkalýðsmál, að það fæst ekki til athafna, jafnvel þótt reynt sé að brydda upp á nýjum aðferðum og blása nýjum anda í glæðurnar. Þess vegna er spurning, hvort ekki verður að fara einhverjar allt aðrar leiðir en þetta hefðbundna fundarform. Hverjar þær leiðir eiga að vera, er svo verk þeirra sem látast vera baráttusinna, að finna.
Nokkur stikkorð frá eigin brjósti: heimsóknir á vinnustaði í kaffitímum, auglýsingastarfsemi, símhringingar í fólk, skoðanakannanir, skemmtistarfsemi, kappræðufundir, o.fl.

21.júní.
F.

---

# Borgið áskriftargjöldin

## Til áskrifenda úti á landi

Í vor hafa áskrifendur úti á landi fengið sendar rukkanir fyrir árgjaldi 198o. Sumum hafa auk þess verið sendar ítrekanir. Margir hafa brugðist vel við og greitt árgjaldið fyrir 1981 líka. Enn eiga þó of margir eftir að greiða 198o og verður þetta síðasta tölublaðið sem skuldugir áskrifendur fá sent. Borgið því í júlí.

## Til áskrifenda í Rvík og nágrenni

Rukkun í ýmsum hverfum R.víkur og nágrannabæjunum Kópavogi, Hafnarfirði, Garðabæ og Seltjarnarnesi er mislangt á veg komin. Sums staðar er rukkun fyrir 1981 nær lokið. Þó eiga enn þá nokkrir tugir áskrifenda eftir að borga 198o. Innheimtumenn munu heimsækja þá nú á næstu dögum þannig að við biðjum ykkur um að taka vel á móti þeim (ekki nauðsynlegt að bjóða þeim inn í kaffi, það gæti tafið fyrir þeim) og ef þið verðið ekki heima þá að borga inn á reikning blaðsins hjá Póstgíróstofunni nr. 122oo-9. Eindagi gjaldanna fyrir 198o í fyrrnefndum kaupstöðum verður tilkynntur síðar.

## Til áskrifenda erlendis

Eindagi áskriftargjalda fyrir 198o og 1981 er 3o. september n.k. Fyrir þann tíma biðjum við ykkur annaðhvort að borga gjöldin eða semja um greiðslufrest við okkur. Það er dýrt að senda blöðin út, kostar um 3 krónur á eintak. Okkur er því nauðsyn á að vita hverjir raunverulega vilja fá blöðin send til sín.
Menn með ógreiddar áskriftir mega búast við að vera teknir af skrá með haustinu. Megum við svo minna á að lesendur geta lagt okkur ómetanlegt lið með því að útvega 1-2 áskrifendur eða selja blaðið í lausasölu. Hugleiddu það, þú stuðningsmaður Verkalýðsblaðsins. Þú getur látið gagnlegt málgagn fara víða.

Bestu kveðjur.
Verkalýðsblaðið.



Norski teinkarinn M(Klassekampen) lætur friðardúfuna Begin segja:"Ég ákveð hvar kjarnakljúfurinn verður". "Nefnilega í Ísrael", segir naggurinn neðst til hægri. Þetta minnir okkur á þá ósvífnu og hættulegu útþenslustefnu sem ráðamenn í Ísrael reka undir því yfirskyni að vernda þurfi "ríki zíonista". Nú þegar hefur það kostað kynþáttakúgun og stanslausa landvinninga. Ísrael virðir engin landamæri í viðureigninni við þá Palestínumenn sem byggt hafa svæði við Miðjarðarhafsbotn jafn lengi og aðrir, en eru nú jafn landflótta og gyðingar hafa verið. Nú síðast réðust Ísraelsmenn inn í Írak til að eyðileggja kjarnorkuver sem kynni að ógna Ísraelsríki. Með sama áframhaldi munu zíonistar stjórna hagnýtingu annarra landa á kjarnorku í mörg þúsund km. fjarlægð undir sama yfirskini. Ekki bætir úr skák að Ísraelar sjálfir geta framleitt 1-2 Hírósímasprengjur á ári.

Kommúnistar eru andvígir and-gyðinglegri stefnu, en þeir eru jafn andvígir ofstækisfullri hefndarstefnu þeirra sem nefna sig zíonista. Því miður hafa allt of margir samúð með opinberri stefnu ísraleskra stjórnvalda, sem er allt annað en virðing fyrir sjálfsákvörðunarrétti gyðingþjóðarinnar. Þess vegna er mikilvægt að kynna sér sögu Palestínumanna, styðja fjöldabaráttu þeirra (ekki flugrán og þvílík hryðjuverk) og fordæma framkomu Ísraela í garð Íraka og Líbanonbúa.

– agé.

*Kampútsea.*

# Samphan og Síanúk funda

Þann 12.mars sl. hittust þeir Khieu Samphan og Síhanouk í höfuðborg N-Kóreu. Markmið fundarins var að mynda samfylkingu allra þjóðhollra afla í Kampútseu gegn víetnömskum innrásarmönnum og leppum þeirra.

Fundinum lauk án þess að árangur næðist. Samkomulag strandaði á kröfu Síhanouks um að Rauðu Khmerarnir yrðu afvopnaðir að loknum sigri. Þetta kemur nokkuð á óvart, þar sem Síhanouk hafði talað fyrir fundinn eins og bandalagið væri nærri því fullfrágengið.

Staðan í Kampútseu er nú þannig, að Rauðu Khmerarnir undir forystu Samphans hafa öflugan skæruliðaher sem hefur náð nokkrum árangri í baráttunni gegn Víetnömum. Aðrir skæruliðaherir Khmera eru veikari, t.d. sá sem Son Sann veitir forystu, og Sihanouk hefur sjálfur enga eða mjög fáa vopnaða fylgismenn í Kampútseu. Sihanouk verður því að treysta á heri Rauðu Khmeranna til að sigra Víetnama, en síðan vill hann afvopna þá eftir sigurinn. Það er stjórn Rauðu Khmeranna á Kampútseu fyrir innrás Víetnama sem veldur því að Sihanouk treystir þeim ekki.

Reyndar sýnist svo sem Síhanouk hafi aldrei verið mjög annt um að ná samkomulagi við Rauðu Khmerana. Þeir gengu að skilyrðum Síhanouks um frjálsar kosningar til þings í Kampútseu og að eigin her hans yrði viðurkenndur, en það nægði ekki og eftir fundinn greindi þá Samphan og Síhanouk á um niðurstöðurnar. T.d. sagði Síhanouk að hann vildi að sæti Kampútseu hjá S.Þ. yrði autt, en Samphan sagði að þeir hefðu orðið sammála um óbreytt ástand, að Rauðu Khmerarnir héldu sætunum þar.

Ljóst virðist að erfitt muni að ná samkomulagi um samfylkingu gegn Víetnömum. Djúpstæður sögulegur ágreiningur er milli málsaðila og erfitt að yfirstíga gamla þröskulda.

AD.



Áróðursmynd frá kvislingastjórninni í Pnom Penh. Sjá má Deng, Sám frænda, Pol Pot, Son San o.fl. í selskap. Maó liggur í kerrunni.

framhald af síðu 2

*## það drukknuðu bara tveir*

leki slíkur að menn fóru ekki úr sjóförum þegar þeir lögðu sig í efri kojur í hásetaklefa. Nokkur þessara skipa fórust á útsjó þegar hvessti, þá gengu konur milli kota og grétu tap útgerðarmannsins, sem stundum hafði þó verið svo hagsýnn að tryggja sitt áður en skipið lét úr höfn.
Sumir útgerðarmenn voru svo veglyndir að leyfa ekkju og jafnvel börnum drukknaðs fiskimanns að vinna á fiskreitum sínum og andríkur prestur flutti þá lofræðu í kirkjunni með almáttugan guð að vopni til blessunar yfir þessum bjargvætti Plássins og jafnvel, stundum allrar þjóðarinnar og ekkjurnar grétu í kirkjunni yfir veglyndi og gæsku útgerðarmannsins.
Nöfn þessara hagsýnu og veglyndu eru vel kunn, m.a. vegna þess að afkomendur þeirra ávaxta gróðann af útgerðinni í lífskjörum Íslendinga, t.d. Tryggingarfélögum, sem greiða bætur, eða hluta þeirra, eftir nokkurra ára málaferli þegar verðbólga er búin að eyða miklum hluta bótanna. Flest er þó baktryggt, fyrir lág iðgjöld erlendis og sá nýtur eðlilega mests trausts, sem tekst að græða á bótunum verðgildi þeirra upp, áður en þær eru greiddar.

Um allan heim gilda sömu, eða svipuð lög og reglur um björgun á sjó. Útlendir sjómenn njóta þessa hér við land, en íslenskir ekki, nema björgunarskipið sé tryggt hjá sama félagi. Útgerðarmenn og tryggingarfélög hafa í sameiningu gert það að reglu að brjóta íslensk og alþjóðalög um öryggi og hjálparstarf á sjó. Þeir skipstjórnarmenn, sem hafa ekki hlýtt útgerðarmanni í þessu hafa mátt pilla sig í land.

Mér eru minnisstæð atvik frá fiskflutningsferð til Bretlands á stríðsárunum. Við tókum fisk af bátum vestur á Breiðafirði. Allt var tekið, sem að barst og þegar við fórum var allt þilfarið undir sjó, frá hvalbak og aftur með vélareisn.

Í Hafnarfriði var byrjað að losa úr lúkarnum, en þegar þrjár smálestir voru komnar upp lét útgerðarmaðurinn hætta vinnu, og náði í opinberann eftirlitsmann til að votta sjóhæfni skipsins, en sá neitaði öllum undirskriftum þar sem hleðslumerkin voru ekki ofansjávar og þess vegna ekki sjáanleg.
Það leið nákvæmlega hálfur klukkutími þar til annar eftirlitsmaður kom og skrifaði undir og með það fórum við. Guðni Pálsson, þekktur togaraskiptstjóri og úrvals sjómaður var þarna stýrimaður og hreyfði andmælum, en á hann var ekki hlustað. Guðni kom til mín og sagði að sér þætti helvíti hart að láta fara svona með okkur, en sig langaði til að fljóta lengur, svo vel þekkti hann samtök útgerðarmanna, að útilokað væri fyrir sig að fá skráningu á skip oftar ef hann gengi nú í land. Ég kvaðst fylgja honum hvora leiðina, sem hann veldi og með það fórum við. Með framþilfarið undir sjó.
Við höfðum áttavita, vegmæli og miðunarstöð, en hvorki siglingaljós eða talstöð, lítið vasaljós var notað til að lesa við af vegmælinum að nóttunni.
Þessir voru kostir íslenskra sjómanna þá og síðan hefir framkoma útgerðarmanna versnað að mun, sem eðlilegt er þegar gróðahyggjan þróast óheft.
Daginn eftir að við komum út sá ég breska sjómenn fara um borð í togara, sem lá ferðbúinn rétt hjá okkur. Litlu seinna komu allir mennirnir aftur upp, með sjópokana á bökunum.
Ég brá mér til þeirra og spurði hvort eitthvað væri að. Jú, það var ekki búið að hita upp hásetaklefann. "Þá gangið þið bara í land?" spurði ég. Já, þeir kváðust vera búnir að fá þessi kjör með verkföllum og ekki ætla sjálfir að skemma fyrir sér með því að líða samningsbrot.
Mér varð hugsað heim.

Ari Guðmundsson.

*## Sósíalismi og Alþýðubandalagið*

framhald af forsíðu

voru í flestu að ryðja braut nýjum og týndum hugmyndum. Þau gerðu þó minnstar vitleysur með því að hvetja til og ástunda umræður um sósíalíska fræðikenningu.

Á þeim forsendum að um smáhópa væri að ræða vísuðu stórlaxar "sósíalismans" í Alþýðubandalaginu iðulega umræðu við þá á bug. Raunverulega ástæðan er samt sú að hinir háu herrar, sem flagga undir merkjum sósíalisma, vöppuðu eins og hænsn í kring um hænsnakofann og þorðu ekki að hætta sér út í umræðu, ef ske kynni að þeir kæmust ekki aftur að ráðherrastólum og þingsætum, eftir að hafa tekið niður um sig.

Í raun eru það þessir smáhópar kommúnista, sem voguðu sér með sósíalismann út á torg og stræti, sem halda merki sósíalisma á lofti á Íslandi. Um sinn getur Alþýðubandalagið hrósað sigri. Því, fyrst og fremst, hefur tekist að bæla sósíalíska hreyfingu og umræðu á Íslandi. Sú hreyfing sem blómstraði í smáhópunum til vinstri er mikils til stöðnuð núna. Ekki þarf að ræða um hreyfingu í Alþýðubandalaginu, eða hvernig finnst félögum bandalagsins ástandið vera í greipum Ólafs Ragnars og Co. Það örlar ekki á hreyfingu, a.m.k. fer lítið fyrir sósíalismanum.

### Sósíalisminn og nátttröllin

Sósíalisminn er lifandi kenning og stefna, sem þolir vel dagsljósið. "Sósíalismi" Alþýðubandalagsins er hinsvegar eins og nátttröll. Á hann er minnst þegar engu er vogað og helst eingöngu í dimmum skúmaskotum flokksins. Að bandalagið sýni "sósíalismann" sinn í dagsbirtu pólitískrar baráttu er af og frá. Með þessu er hvorki Alþýðubandalagið sem slíkt, né flokksfélagar dæmdir norður og niður. Íhaldsmaður myndi bjarga krata og jafnvel komma frá drukknun.

Alþýðubandalagið og félagar þess hafa oftlega staðið að margháttuðum þjóðþrifamálum og unnið vel. Hér hefur hins vegar þáttur Alþýðubandalagsins í sósíalismanum á Íslandi verið dæmdur og dómurinn verið neikvæður. Sök Alþýðubandalagsins við sósíalismann er mikil, þrátt fyrir gaspur um að flokkurinn sé sósíalískur.

–Æ.

# Breskir rokkarar í baráttuham

1977 var ár pönkrokks og jafnréttisbaráttu í Bretlandi. Clash og Tom Robinson Band rifu Andnasista-fylkinguna (Anti-Nazi Legue) og Rokk Gegn Kynþáttamisrétti (Rock Against Racism) upp í öflugar fjöldahreyfingar. Popparar sem áður hömpuðu fasisma skömmuðust sín nú fyrir andfélagslegar skoðanir sínar. Popparar sem áður forðuðust bein pólitísk afskipti fóru nú að rokka gegn heimsvaldastefnu o.s.frv.

tónlist

Þrátt fyrir þessa jákvæðu þróun sigraði leiftursókn arstefna frú Thatcher í bresku alþingiskosningunum 1979, sem kunnugt er. Afleiðingarnar létu ekki á sér standa: Kynþáttamisréttið jókst. Sömuleiðis lögregluofbeldið og verðbólgan. Atvinnuleysið stórjókst. Svona mætti lengi áfram telja.

Trúir "77" byltingunni standa nýbylgjurokkararnir fremstir í hinum ört vaxandi hópi leiftursóknarandstæðinga. Clash, Jam o.fl. settu t.d. upp sérstaka hljómleikaseríu, sem þeir kölluðu Rokk Gegn Thatcher (Rock Against Thatcher). Og um mánaðarmótin maí/júní dró önnur skyld hreyfing, Rokk Fyrir Atvinnu (Rock For Jobs), 150.000 manns á baráttufund atvinnulausra.

Baráttugleði nýbylgjurokkaranna hefur einnig blásið lífi í marga "gömlu" rokkara Pete Townshend (Who) og Jim Capaldi (Traffic) skemmtu t.d. báðir á áðurnefndum baráttufundi.

Bandaríski "strætisrokkarinn" Bruce Springsteen mætti líka á fundinn og bauðst til að "taka lagið". Því eins og hann benti réttilega á þá er atvinnuleysið í Bretlandi ekkert einkamál þarlendra. Eða eins og segir í nýrri hljómleikaútgáfu Springsteens á gömlum Woody Guthrie-slagara:

"Þetta land er þitt land/
þetta land er mitt land/
Allt frá Kaliforníu til
stræta Brixton-hverfis."

J.Guð.



Reaggae-söngvarinn Barry Forde og nýbylgjurokkarinn Tom Robinson eru virkir í hreyfingunni Rock For Jobs.

# Fagleg samstaða eða pólitísk sundrung

lesendabréf

Maður eða kona sem skammstafar sig "as" reit grein um 1. maí í síðasta tölublað VBL sem ég er ósammála í mikilvægum atriðum.

Þar er spurt um réttan grundvöll 1. maí aðgerða: "Hvort skal leitast við að hafa yfirbragðið eingöngu faglegt eða í senn faglegt, sósíalískt, andheimsvaldasinnað og alþjóðlegt?" Og as virðist velja síðari kostinn.



Eins og ég lít á málið er 1. maí ekki einkadagur sósíalista. Öllu fremur er hann dagur baráttufúss verkafólks og alþýðu um heim allann. En auk þess hafa sósíalistar löngum sett svip sinn á daginn og krafan um afnám auðvaldsskipulagsins hefur því oft verið áberandi.

Að mínu áliti er engin uppskrift til um það hvernig 1. maí aðgerðir eiga að vera - og as. er trúlega sammála því. Eitt er þó víst, að stefnugrundvöll kröfugöngu 1. maí á ekki

Lítum þá aðeins á þessar aðstæður hér til lands sem stendur. Hér er mjög útbreidd óánægja með verkalýðsforystuna, jafnvel allvíðtæk fordæming á starfi hennar og stefnu. Óánægja þessi hefur hins vegar ekki átt sér neinn skipulegan farveg, m.a. af því stjórnmálasamtök sem styðja hana eru veik og hafa ekki "borið gæfu til" að starfa að semja út frá lausum hugdettum og innblæstri.

Kröfurnar sem settar eru á oddinn eiga að endurspegla baráttumál hinnar daglegu stéttabaráttu og pólitísku baráttu sem háð er árið um kring. Í því stríði hljótum við kommúnistar að heyja hvort tveggja í senn, baráttu fyrir pólitískum stefnumiðum okkar og baráttu fyrir breiðri samstöðu um brýn mál og stéttarlegri einingu. Hvort þessara atriða er mikilvægara? Við því er ekki til neitt almennt og algilt svar. Sú áhersla sem kommúnistar leggja á hin ýmsu baráttumál mótast af ríkjandi aðstæðum á hverjum tíma. Sammála? saman. Það hafa þó gerst jákvæðir hlutir í þessum málum upp á síðkastið svo sem sjálfstæð barátta föstra prentara o.fl. Þá hefur einnig sýnt sig betri grundvöllur en áður fyrir faglegu samstarfi á kantinum vinstra megin við Abl-forystuna - jafnvel höfum við marx-lenínistar unnið þar með trotskístum í sátt og samlyndi. Það er samstaða um stefnumið eins og þessi: Gegn stéttasamvinnustefnunni. Eflum lýðræðið í verkalýðsfélögum. Gegn flokksræði í hreyfingunni. Endurreisum verkalýðshreyfinguna til baráttu. Það sem ber á milli á þessu sviði er ekki það mikið, að það eigi að hindra samstarf.

Allt annað er uppi á teningnum gagnvart heimsmálunum. T.d. í afstöðunni til risaveldanna tveggja eru marx-lenínistar og trotskístar á mjög öndverðum meiði. Skoðanir annarra vinstrimanna eru yfirleitt einhvers staðar á milli þessara tveggja póla. Fyrir okkur marx-lenínista þýðir það að við verðum að berjast eins og ljón fyrir þeirri stefnu sem við teljum rétta - en verðum jafnframt að viðurkenna, að það er því miður hreint ekkert útlit fyrir samkomulag um þau mál í bráð. Hvort taka ætti með á 1. maí almenn andheimsveldasinnuð kjörorð s.s. gegn hernaðarbrölti risaveldanna er matsatriði og kemur alveg til greina ef breið samstaða er fyrir hendi - en ekki ætti að gera slíkt að sprengimáli.

Krafan um sósíalískt Ísland á 1. maí er dálítið sér á parti. "Vinstrigrúppurnar" eru varla ósammála um hana út af fyrir sig. Þar með er þó ekki sjálfsagt að bera þá kröfu í umræddum aðgerðum. Mér finnst eðlilegast að spyrja: Er sá baráttufúsi hluti verkalýðs sem þessar aðgerðir einkum höfða til, fylgjandi þeirri kröfu eður ei? Ef við teljum svo ekki vera finnst mér það ekkert sáluhjálparatriði að hafa hana með. Meðan íslensk alþýða tengir hugtakið sósíalismi helst Austur-Evrópu finnst mér afar hæpið að gera slíka kröfu að úrslitaatriði. Með því væru sósíalistar að einangra sig frá mörgu baráttufúsu fólki á óheppilegan hátt.

Eins og staðan er, sýnist mér mergurinn málsins vera þessi: Á að helga 1. maí faglegri samstöðu eða pólitískri sundrungu? Ég aðhyllist fyrri kostinn.

Þórarinn.

*Um stefnuskrá:*

# Forystumenn vinni sem verkamenn

Samtökunum bárust nokkrir viðaukar í stefnuskrárdrög (sjá lesbók nr.2) frá Ísafirði fyrir skömmu. Nokkrir áhugasamir launamenn höfðu rætt þessi atriði og sent suður. Í bréfinu er m.a. rætt um vaxandi stéttskiptingu á Íslandi og um það hve lýðræði er ábótavant í landinu. Lengsti bréfliðurinn fjallar um uppdráttarsýki verkalýðshreyfingarinnar. Segir þar m.a.:

"Forystumenn verkalýðshreyfingarinnar verða að vinna sem verkamenn a.m.k. hluta úr hverju ári. Þeir mega ekki gegna þingmennsku eða stjórnunarstörfum á vegum ríkis, bæja eða stórra fyrirtækja og aðeins takmörkuðum fjölda trúnaðarstarfa fyrir verkalýðshreyfinguna (t.d. 2?) samtímis. Forystumenn sýni almennum félögum traust og leggi sig fram við að örva þá til þátttöku".

Síðar segir: "Ef hagsmunir verkalýðsfélags og stjórnmálaflokks forystumanns í verkalýðsfélagi rekast á, verða hagsmunir flokksins að víkja". Þá er krafist meiri valda og ábyrgðar einstakra verkalýðsfélaga og svæðasambanda, aukinna áhrifa almennra félaga á stjórnarkjör (t.d. með prófkjörum) og að trúnaðarmenn séu kosnir á vinnustöðum. Rætt er um frjálsara fundarform (m.a. hópumræður) og stóraukið fræðslustarf o.fl.

Loks segir: "Stórum félögum sé skipt í deildir eftir stórum vinnustöðum eða verkgreinum (t.d. menn á þungavinnuvélum í sérdeild). Deildirnar hafi eigin stjórn (fámenna, m.a. skipaða trúnaðarmönnum) og haldi fundi um eigin málefni.

Við vantum fleiri viðauka, gagnrýni og athugasemda.

-agé.

Landsbókasafnið
v/ Hverfisgötu
101 Reykjavík

Lausasala: kr. 4,00
Ársáskrift: kr. 60,00
Ársstuðningsáskr.: kr. 120,00
Ársáskr. til útl.: kr. 120,00

Verkalýðsblaðið

6.tbl. 10.árg. 6.7. 1981

*Orkuþing og 17. júní:*

# Orku- og sjálfstæðismál

Nýlega var haldið mikið orkuþing hér í R.vík. Dagblöðin hafa flutt fréttir af þinginu og að sjálfsögðu litað þær hvert með sínum pólitíska litkrítarmola. Verkalýðsblaðið getur tæplega keppt við dagblöðin í fréttaflutningi af þinginu sökum fátæktar hvað peninga og blaðsíður varðar. Við eigum hins vegar pólitíska litkrít, sem hin blöðin gætu öfundað okkur af og með henni ætlum við að teikna hér upp dálítla þjóðhátíðarmynd af orkumálum okkar Íslendinga.




## Öryggisflötur myndarinnar

Orkan er rauður þráður í tæknivæddu þjóðfélagi okkar. Í ótryggum heimi stríðsátaka og vaxandi kreppu er hollur heimafenginn baggi. Á það einkum við um matvæli og ýmiss ómissandi framleiðslutæki, auk orkunnar. Og allt er þetta hvað öðru háð.

Þrátt fyrir aukna nýtingu innlendra orkuauðlinda hefur þjóðin líklega aldrei verið eins háð erlendri orku. Þó svo að röskur helmingur orkunnar, sem nú er notuð í landinu, sé af innlendum toga, er það lítið til að stæra sig af. Þetta hlutfall hefur verið mun hærra allt frá landnámi og nokkuð fram á þessa öld á tímum voðaafls, ljósmetis og mótekju.

Nú er málum þannig háttað að allt lamast, ef landið verður olíulaust. Ekki er hægt að draga bein úr sjó og fóðuröflun fyrir búfé landsmanna yrði harla erfið. Helstu tæki til fólks- og vöruflutninga yrðu reiðhjól (þeim fer til allrar hamingju fjölgandi). Menn gætu hugsanlega smíðað hestvagna úr blikkbeljunum og þarfasti þjónninn myndi endurheimta sína fyrri stöðu. Einhverjir myndu kvarta yfir fábreyttu mataræði, ef tæki fyrir alla flutninga til landsins og allt brauðmeti yrði ófáanlegt.

## Frumkvæði og rannsóknir vantar inn í myndina

Með gnótt vatnsorku og jarðhita, en alls enga olíu hefur Ísland haft sérstöðu meðal tækniþróaðra landa. Þessar orkulindir hafa ekki neina teljandi þýðingu í þeim ríkjum, sem hafa verið í fararbroddi í tækniþróuninni. Það er því mjög eðlilegt að þessi ríki þróuðu flutningatæki og mjölþurrkara, sem notuðu olíu. Það er fáránlegt að framleiða rafmagnsþurrkara í mjölverksmiðju í landi þar sem rafmagn er framleitt með olíu. Sama gildir um bíla og skip.

Þessu er ólíkt háttað hér á landi. Hvers vegna var íslenskri tæknikunnáttu og fjármagni ekki beint að þróun þeirrar tækni, sem sérstaða lands okkar krefst? Það telst varla mikið tækniafrek að hanna og framleiða fiskimjöls- og grasmjöls-þurrkara, sem nota raforku eða jarðhita í stað olíu. Fyrir nokkru var upplýst, að fiskimjölsiðnaðurinn noti álíka mikla orku og álverið í Straumsvík. Hvers vegna völdu stjórnvöld álverið í stað þess að hanna og reisa fiskimjöls- og grasmjölsverksmiðjur er notuðu heimafengna orku? Ha?

## Aftaníossaómyndir

<u>Ef</u> íslenska ríkið ætti sér einhverja aðra hugsjón en að vera aftaníossi erlends valds og öðlast hlutdeild í gróðabralli þeirra stóru, – þá hefði það e.t.v. varið fjármunum til rannsókna og hönnunar rafgeyma, rafmótora og fljótandi eldsneytis. Ef vísindamenn á þessu sviði hefðu fengið hér góð starfsskilyrði og örvun, værum við líkast til í fararbroddi meðal þjóða heims í nýtingu raforku til flutninga. Við erum nú í fremstu röð meðal þjóða heims hvað varðar þekkingu á leit og nýtingu jarðhita og fleiri þætti jarðvísinda. Það er dæmi um hvert lítil þjóð getur náð ef tekið er mið af sérkennum landsins, en því miður undantekning frá reglunni.

Ef sjálfstæðishugsjón ætti upp á pallborðið hjá íslenskum ráðamönnum, þá hefði Grundartangaverksmiðjan aldrei verið reist. Í stað hennar hefði e.t.v. komið verksmiðja, er framleiðir fljótandi eldsneyti eða jafnvel rafknúin ökutæki. Stálverið og saltverksmiðjan, sem nú er fyrirhugað að reisa og nýta muni íslenskt hráefni og orku, væru fyrir löngu teknar til starfa. Nýting innlendrar orku til húsahitunar væri í höfn og að sjálfsögðu væri allt mjöl þurrkað með innlendri orku. Steinullariðnaðurinn sem hér var á 7. áratugnum (2 verksmiðjur um tíma) hefði ekki verið settur á hausinn með rafmagnsskömmtun og háu orkuverði. Ódýr gæða-skreið væri þurrkuð við jarðhita og seld til þeirra þjóða sem sárast vantar próteinrík matvæli – <u>ef</u> aftaníossastefnan hefði ekki orðið ofaná í íslenskum stjórnmálum.

## Hryllingsmynd nútíma einokunar

Öfuguggaháttur íslenskra stjórnvalda kemur skýrt fram í verðlagningu raforkunnar. Forréttindi stóriðjunnar eru þvílík, að tekur engu tali. Munur á raforkuverði til stóriðju og til annarrar starfsemi í landinu er hreint ótrúlegur og útilokað að skilja hann öðru vísi en sem markvissar aðgerðir íslenskra umskiptinga til að herða kverkatak erlendra auðhringa á íslensku efnahagslífi. Framleiðslu úr innlendu hráefni er byggir að verulegu leiti á íslenskum markaði og íslensku verksviti er fórnað fyrir beina og óbeina innlimun í net erlendra auðhringa. Stóriðjustefnan vinnur á hjá foringjum okkar og viðnám Alþýðubandalagsins er fálmkennt og þverrandi.

Danska einokunarverslunin á sér nú formælendur fáa. Það vefst hins vegar fyrir mörgum að sjá og skilja arftaka hennar, einokun nútímans, sem teygir klær sínar um allan heim. Hún lýtur forræði ótrúlega fámennra hópa manna og stjórnast af lögmálum sérhagsmunahyggju og útþenslu. Þar nær lýðræðið einungis til hinnar fámennu forystu. Fyrir óbreytta þegna er álíka erfitt að hafa áhrif á ákvarðanatöku þessara stórvelda eins og ánauðugum bændum miðalda á gerðir einvaldskonunga þess tíma.

## Skopmynd af sjálfstæði

Þeir sem ganga erinda þessa valds hér á landi eru margir, en "mis stórir í bransanum". Allir tala þeir um lýðræði, valddreifingu, þjóðlegt sjálfstæði og frelsi einstaklingsins. Þeir eru á góðri leið með að gera þessi hugtök að innantómum glamuryrðum og örgustu öfugmælum. Þeir bera lof á Jón Sigurðsson um leið og þeir hnýta örlagaþræði okkar er nú byggjum Ísland, fasta í net erlendra stórvelda.

Jón Sigurðsson barðist fyrir því að efla sjálfstraust þjóðarinnar og flytja vald og þekkingu inn í landið, nær fólkinu. Það var spor í rétta átt. Margir þeir, sem mæra hann í dag, berjast í raun fyrir því gagnstæða. Veitum þeim viðnám. Skerpum baráttuna fyrir raunverulegri dreifingu valds og þekkingar gegn undirokun fjölþjóðlegs (óþjóðlegs) peningavalds. Spornum gegn stórfelldri fórn gróinna heiðarlanda á altari stóriðjunnar. Verjum íslenskar orkulindir fyrir ásælni þessa peningavalds, þar til það er út úr myndinni.

á 17.júní. ÞÖÁ.

# Leshringur

Nú í þessari viku (mánudaginn 6.júlí og miðvikud. 8.júlí) hefst námshringur á vegum Kommúnistasamtakanna. Sú tilhögun verður viðhöfð, að hver fundur verður tvítekinn, á mánudagskvöldum og miðvikudagskvöldum. Geta væntanlegir þátttakendur þannig valið hvort kvöldið þeir vilja að jafnaði funda og eiga síðan kost á að skipta um hóp ef þannig stendur á einhverja viku. Fundirnir verða eins og fyrr sagði á mánudags- og miðvikudagskvöldum kl. $20^{30}$ í húsnæði samtakanna á Frakkastíg.

Aðalumræðuefni eru fimm talsins, en fundir verða 8 (16 vegna tvítekningar). Einn maður ber ábyrgð á hverjum fundi og mætir sá bæði kvöldin þá viku. Nánari ákvörðun lesefnis fer fram í lok næsta fundar á undan, en efni funda og dagsetningar þeirra eru eftirfarandi (fyrri dags.mánudagskv. en seinni miðvikud.):

<u>1.(6. og 8.júlí)og 2. fundur (13.og15.júlí)</u>: Þarf kommúnísk samtök – Hver er tilgangur starfs okkar? Meðal lesefnis: Hvað ber að gera (Lenín),Um móthverfur, Um starfið(Maó), Díalektísk og söguleg efnishyggja (Stalín).

<u>3.(20.og22.júlí) og 4.fundur (27. og 29.júlí)</u>: Ríkið, lýðræðið og bylting: þessi efni auk sögu vinstrihreyfingar á Íslandi frá ca.. 1920. Meðal lesefnis: Ríki og bylting (Lenín), sögubæklingar Framlags, úr sögu KFÍ(Þ:Whitehead, Ingólfur Jóhannsson).

<u>5.(3.og 5.ágúst) og 6.fundur (10.og 12.ágúst)</u>: Hagfræði marxismans: Stéttgreining ísl.þjóðfélags,efnahagsástandið, hagsmunabaráttan. Meðal lesefnis: Úrvalsrit (Marx,Engels),Réttur,Rauðliðinn o.fl.

<u>7.fundur(17.og19. ágúst)</u>: Kína og saga marx-lenínískrar hreyfingar.

<u>8.fundur (24.og 26.ágúst)</u>: Hvað er að Baráttuleiðinni?: Stefna og starf Kommúnistasamtakanna. Meðal lesefnis: Stefnuskrárdrög(4.tbl.Vbl.), Baráttuleið alþýðunnar.

Eins og fyrr sagði er allt lesefni ekki fyrirfram ákveðið nákvæmlega, en stefnt er að því að lesa valda kafla úr verkum frumkvöðlanna og ræða með tilliti til okkar þjóðfélags á líðandi stund. Fyrir fyrsta fund skulu lesnar áðurnefndar greinar Maó og Stalín.

Þeir sem þátt vilja taka eru hvattir til að mæta á fyrrgreindum tíma.